# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, FEBRÚAR 1904. NR. 12.

**Trúarsamtalsfundir**

voru nýlega haldnir í fjórum íslenzkum söfnuðum hér um slóðir: í Pembina, N.-Dak., miðvikud. 20. Jan. að kvöldi, í Selkirk, Man., mánud.kv. 25. Jan., í Tjaldbúðinni í Winnipeg þriðjud.kv. 26., og í Fyrstu lút. kirkju miðv.d.kv. 27. Umrœðuefni á þremr af fundum þessum var: *skyldur foreldra við börnin*, en á einum (í Fyrstu lút.k.): *kirkjuganga*. Fremr vel sóttir voru allir fundirnir og umrœðurnar í heild sinni uppbyggilegar og vekjandi. Búizt var við, að allir prestar kirkjufélagsins kœmi til fundahalda þessara, en tveir þeirra voru forfallaðir: séra Björn B. Jónsson og séra Hans B. Thorgrímsen. (Stud. theol. Kristinn K. Ólafsson frá prestaskólanum í Chicago lá á þeim tíma hættulega sjúkr í Minneota, og fyrir þá sök gat séra Björn með engu móti komið.)

---

Lengi hefir það staðið til, að prestar kirkjufélagsins íslenzka hér mynduðu með sér félagskap sérstakan í því skyni að styðja hver annan sem bezt til þess að vinna verk embættisköllunar sinnar. Í sumar, sem leið, eftir kirkjuþing var tveimr þeirra falið á hendr að hafa til frumvarp til laga fyrir slíkt félag, þegar prestarnir kœmi næst saman, væntanlega í Janúar þetta ár, til trúarsamtalsfunda og annarra kirkjulegra nauðsynja vegna. Þetta fór eins og til var ætlazt. Um sama leyti sem samtalsfundirnir, er þegar var um getið, fóru fram í söfnuðunum, höfðu prestarnir, sem þá sóttu, fund með sér til þess meðal annars að rœða um lagafrumvarp það, er samið

hafði verið. Á þeirri undirstöðu voru grundvallarlög fyrir prestafélagið samþykkt. Og félag þetta hið sérstaka fyrir prestana í kirkjufélaginu getr því nú talizt fullmyndað.

Samkvæmt lögum þess heldr það tvo aðal-fundi árlega, annan rétt á undan kirkjuþingi (í Júní), hinn í Janúar.

---

Ljótar og sorglegar eru sögurnar í blöðunum frá Íslandi um óstandið í latínu-skólanum í Reykjavík og upphlaupið, sem þar varð í vetr rétt fyrir jólin. Þar hefir opinberazt meir en lítill *anarchismus* hjá hinum ungu námsmönnum. Margir vilja helzt eða jafnvel eingöngu kenna skólastjóra um óhappið og óaldarbraginn. En það er vissulega ranglátt. Hér er engum einum manni um að kenna, heldr gömlum spillingaranda, sem lifað hefir í skólanum allan hans aldr í höfuðstað Íslands, anda heiðninnar og villudómsins, sem Íslendingar hafa inn í sig drukkið með Kaupmannahafnar-menntan sinni. Sveinbjörn Egilsson sagði á sinni tíð—út af upphlaupsanda skólasveina þá—, að skólinn væri orðinn „gróðrarstía lasta og ódyggða". Hann sá ógæfuna, en fékk ekki við gjört. Og engum eftirmanna hans, þótt hinn bezta vilja hafi haft, hefir tekizt að lækna sjúkdóminn. Skólinn og menntalíf Íslendinga í heild sinni þarf að kristnast.

---

Í „Fjallkonunni" kom nýlega grein eftir einhvern ónafngreindan höfund á móti því að Íslendingar fari að verða með í því að styðja kristniboð meðal heiðingja, sem synodus, sú er síðast var haldin í Reykjavík, vildi hvetja til. Sú grein er fáránlega hugsuð frá upphafi til enda, og þar er fleygt fram staðhæfingum um árangrinn af missíóninni í heiðingjalöndunum, sem ná engri átt. Ritstjóri „Fjallkonunnar", sem er gamall þjóðkirkjuprestr, en nú fyrir skömmu hefir gjörzt leiðtogi Fríkirkjusafnaðarins í Reykjavík, getr þess með ofr lítilli athugasemd, að hann sé ekki að öllu leyti grein þessari samþykkr. Það virðist benda til þess, að í aðal-atriðinu sé hann erindi þessu samþykkr, og gegnir slíkt furðu.—Hneykslisgrein þessi ætti nú að verða til þess, að kristið fólk af vorri þjóð bæði á Íslandi og hér vestra færi í hjartans alvöru að hugsa

um skyldu sína, eins og allra annarra lærisveina Jesú Krists, til þess að styðja að útbreiðslu ríkis hans meðal heiðingja. Látum nú út af þessu atviki heiðingja-missíónina hið bráðasta komast á hina kirkjulegu dagskrá hjá oss. Og trúum því hiklaust, að verkleg hluttaka af vorri hálfu í þeirri göfugu starfsemi, hljóti að verða trúarlífi safnaða vorra til verulegs gróða.

---

Slysið ógurlega, sem kom fyrir í leikhúsi einu („Iroquois") í Chicago rétt fyrir árslokin síðustu og hafði í för með sér bráðan bana 591 manns, hefir vakið samvizkur fjölda kristins fólks víðsvegar um heimsálfu þessa og enn víðar um lönd. Menn hafa mjög alvarlega farið að hugsa um hinar margvíslegu andlegu hættur, sem standa í sambandi við leikhúsin, leikhúsgöngur fólks, einkum ungmenna, og leikaraíþróttina. Og margir hafa strengt þess heit, að stíga aldrei framar á æfi sinni fœti sínum inn á slíka skemmtistaði.—Leikaraskapr hefir stórum farið í vöxt meðal Íslendinga á síðasta mannsaldri, langtum meir en góðu hófi gegnir. Vert væri einnig fyrir vort fólk, sem kristið vill vera, að gjöra sér ljóst, hve miklar og margar geta verið leikhús-freistingarnar, ekki að eins þær, sem leikendr hljóta að mœta, heldr og þeir, sem leggja það í vanda sinn að sœkja sýningar í leikhúsum eins og þær gjörast upp og niðr.

---

„Íslenzkt þjóðerni"—alþýðufyrirlestrarnir eftir Jón Jónsson út af sögu Íslands—er ágæt lítil bók, sem ber af öllu samkyns, er ritað hefir verið á vorri tungu nú lengi, að andlegri lyfting. Kverið er mjög skemmtilegt aflestrar. Sumir dómar höfundarins eru þó varhugaverðir, t. a. m. þeir, er hann kveðr upp yfir Jóni Arasyni, honum til lofs, og Gizuri Einarssyni, honum til lasts. Aftr á móti hefir hann vissulega í aðalefninu rétt fyrir sér í því, er hann segir um áhrif keltnesku menntunarinnar á þjóðerni vort í fornöld, þó að þeirri skoðan hans sé nú all-sterklega mótmælt af ýmsum merkum og sögufróðum löndum vorum.

---

„Lýðmenntan" eftir Guðmund Finnbogason er líka góð

bók og vekjandi. Þar er meðal annars þáttr um „kristindómsfrœðslu", og er flest þar vel sagt. Réttilega er þululærdómi „kversins" andœft. En ekki hefði höfundrinn átt að smeygja staðhœfingum biblíu-'kritíkarinnar" inn í rit þetta—, eins og hann hefir gjört. Það spillir víst fyrir þessu uppeldisriti hjá ekki svo fáum góðum Íslendingum.

## ÓLAFR G. ANDERSON
(Arngrímsson).

**Eftir séra N. Stgr. Þorláksson.**

Með láti Ólafs heitins misstu Vestr-Íslendingar á árinu liðna einn bezta dreng sinn og kirkjufélagið einhvern einlægasta og viljabezta stuðningsmann sinn. Heill þess bar hann fyrir brjósti og var með í starfi þess af heilum huga. Það má því sakna hans og minnast sem ágæts bróður með þakklæti til drottins fyrir verkið og minninguna, sem hann lét eftir.



Ólafr G. Anderson.

Hann varð ekki gamall. Var á 45. árinu. Flutti hingað vestr tvítugr úr Vopnafirði með fimm systkinum, alveg félaus maðr eins og flestir íslenzku innflytjendrnir. En við fráfall sitt, 10. Sept. síðastl., var hann orðinn með efnuðustu Íslendingum hér vestra. Hafði þó ekki rekið verzlun upp á eigin spýtur nema 7 síðustu árin, í bœnum Minneota í Minnesota, og byrjaði með lítil efni. Nokkur verzlunarreynsla og beztu verzlunarhœfileikar var aðal-„stofnfé" verzlunar hans. Verzlunarhœfileika sína sýndi hann með því á þessum stutta tíma að ryðja sér til sætis á meðal helztu kaupmanna í suðvestr-hluta Minnesota-ríkisins. Hika eg mér ekki við að telja, að hann hafi verið fremstr í röð íslenzkra kaupmanna vestan-

hafs, þeirra, sem eg þekki. Góð verzlunar-skilyrði lágu svo opin fyrir honum. Og hann var röggsamr og kappsamr kaupmaðr eins og hann hefði verið innfœddr Ameríkumaðr. Áræðinn var hann, en tefldi aldrei verzlunarmálum sínum í tvísýnu, reglusamr og stjórnsamr í bezta lagi. Við skiftavini sína vildi hann koma fram sem kristinn kaupmaðr. Og var verzlunarregla hans sú, að heiðarleg viðskifti væri beztu verzlunar-hyggindin. Enda reyndu skiftavinir hans það, að honum mátti treysta.

En þótt hann fœrðist mikið í fang og verzlunin ykist ár frá ári, lét hann verzlunar-annríkið aldrei gleypa sig, né verzlunar-umhyggjurnar girða svo utan um sjóndeildarhring sinn, að hann sæi ekkert nema verzlun, eða verzlunar-umhugsanir fylla svo huga sinn, að öðrum hugsunum yrði úthýst. Hann var enginn andlega uppþornaðr verzlunarmaðr. Fjarri því.

Allan verzlunartíma sinn var hann bezti starfsmaðr safnaðar síns, sívakandi fyrir málum hans og kirkjunnar yfirleitt, og hafði hinar mestu mætur á kristindómsstarfinu öllu og lifanda áhuga fyrir því, enda skildi hann það mæta-vel.

Á sunnudögum sagði hann ekki: „Eg er of þreyttr til þess að fara í kirkju"; því hann var þar eins áreiðanlega og prestrinn. Hann vissi, að hann átti að vera þar eins og prestrinn; því hann hafði ekki verið með að kalla prest til þess að flytja guðs orð fyrir tómum kirkjubekkjunum eða öðrum mönnum aðallega, heldr líka honum. Hann vildi líka vera í kirkjunni á staðnum sínum eins og í búðinni, ekki eingöngu vegna þess að skyldan ræki hann, heldr af því hann sjálfr þurfti þess. Hann kom til kirkju til þess að hvílast andlega, einmitt til þess að safna kröftum þar. Enda var hann með heilum huga í kirkjunni. Eg hefi aldrei séð mann taka betr eftir. Hvernig hann hlustaði á! Það var unun að veita því eftirtekt. Það fékk því ekki nærri því eins á mig, þótt fáir væri við messu, ef hann var það. Ekki heldr hugsaði hann á sunnudögum þannig: „Nú vil eg vera laus við allt starf, eg, sem hefi í svo miklu að snúast og um svo margt að hugsa alla vikuna"; því hann var sunnudagsskóla-kennari alla sína verzlunartíð og mikinn hlutann forstöðumaðr sunnudagsskólans í söfnuði sínum. Hann langaði til að kenna barnanna vegna, sjálfs sín vegna, drottins vegna. Hann var því ekki utan við sig við kennsluna. Var sjálfr allr með í henni. Enda bjó hann sig undir hana; því hann fann til þess, að það var synd gegn börnunum, sjálfum sér og drottni, að koma til kennslunnar óundirbúinn. Hve vel hann skildi stöðu kennarans og starf sunnudagsskólans — það sýnir ritgjörðin efir

hann, sem hann las upp á sunnudagsskólaþingi því, er haldið var í sambandi við kirkjuþingið á Garðar 1902, og birtist hér í ,,Sam." (XVII, 7).

Sunnudagsskólakennari varð hann, af því hann var svo góðr lærisveinn sjálfr—lærisveinn drottins síns. Hann fann innilega til þess, að hann þurfti sjálfr einlægt að læra og vildi einlægt læra. Löngun sú kom fram í öllu starfi hans og gjörði hann einmitt að svo hœfum manni. Vegna þess tók hann líka eftir öllu eins vel og hann gjörði. Og var svo gjarn á að spyrja og spurði svo einlæglega. Það var ánœgjulegt að tala við hann um kristindóm og um guðs orð; því hann var hrifinn og hafði brennandi löngun til þess að komast æ lengra og betr inn í helgidóm drottins. Biblíuna sína lagði hann ekki upp á hilluna. Hún var honum bókin frá guði, sem guð á sérstakan hátt talaði í til hans. Þess vegna las hann hana, leitaði sér upplýsingar, þegar hann skildi ekki eitthvað, og var innilega þakklátr fyrir tilsögn.

Þótt hann ekki næði háum aldri, lét hann eftir sig mikið starf, en átti mikið eftir ógjört af því, sem hann þráði að koma í verk. En drottni þóknaðist að kalla hann heim um hádegið, og með dœmi þessa látna bróður minnir hann oss á það, að því sannari lærisveinar drottins sem vér erum og því einlægari, því betri starfsmenn hans verðum vér.

Drottinn blessi minning Ólafs G. Andersons.

---

# Hvað er biblíu-'kritík'?

Eftir C. Asschenfeldt Hansen.

## VI.

### HVERJA ÁVEXTI MÁ BÚAST VIÐ AÐ SLÍK BIBLÍU-'KRITÍK' BERI?

,,Gott tré getr ekki borið vondan ávöxt, ekki heldr vont tré góðan ávöxt''–segir Jesús (Matt. 7, 18). Biblíu-'kritíkin', eins og vér nú höfum virt hana fyrir oss, er ekki neitt gott tré. Það sýnir sig líka á ávöxtunum. Biblíu-'kritíkin' hefir gjört út af við nafn sitt með ávöxtum þeim, sem hún hefir borið. Orðið biblíu-'kritík' mun naumast nokkurn tíma framar í kristninni tákna neitt gott. Til þess að tákna góða tréð munum vér framvegis nota orðið ,,biblíurannsókn''.

1. Þegar vér nú förum að athuga ávexti biblíu-'kritíkarinnar', hljótum vér fyrst að nefna lítilsvirðing þá á gamla testamentinu, sem er óhjákvæmileg afleiðing hinnar kollvarpandi starfsemi biblíu-'kritíkarinnar'. Í reyndinni sýnir það sig líka alskýrt, að þar sem biblíu-'kritíkin' hefir náð sér niðri er hætt að nota gamla testamentið. Hver ætli kæri sig um að lesa fyrstu Mósesbók, þar sem biblíu-'kritíkin' er annarsvegar og eins og illr andi hvíslar því að mönnum, að þar sé allt fullt af æfintýrum, engin áreiðanleg saga? Og hver mun kæra sig um að lesa hinar Mósesbækrnar, þegar menn eru fræddir um það, að þær sé í letr færðar mörgum öldum eftir daga Mósesar í sérstökum tilgangi, og að nafn Mósesar að eins hafi verið notað til þess· því hægra yrði að smeygja þeim inn á meðal Ísraelslýðs? Óskiljanlegt er það, að talsmenn biblíu-'kritíkarinnar' geti ímyndað sér, að hið guðdómlega innihald Mósesbókanna fái hjá mönnum geymzt efasemdalaust í ljósi þvílíkrar skoðunar. Þetta, um „tímann, þá er ritningarnar voru færðar í letr, og eðli þeirra", verðr að fullnaðar-atriði, þegar því er haldið fram, að höfundar bóka þessara sé svo margir, að þeir skifti tugum og að þeir hafi uppi verið mörgum hundruðum ára seinna en Móses, án þess þó hins vegar nokkur einasti einn af þeim, sem eru að eiga við biblíu-'kritík', geti sagt oss, hvað sé hið sanna og upphaflega innihald þeirra. Sé þetta satt, þá eru Mósesbækrnar ekki þess verðar, að þær sé lesnar. Og á líkan hátt er það að því er snertir mikinn hluta annarra rita í gamla testamentinu. Það er nauða-lítið, sem 'kritíkin' skilr lýð guðs eftir. Fyrsti ávöxtrinn er þá þetta: Stór-mikið af gamla testamentinu verðr að hrærigraut, og það er í mesta máta vafasamt, hvað þar er til af sannindum.

2. Næsti ávöxtrinn, sem eg vil benda á, eru áhrif þau, sem biblíu-'kritíkin' hefir haft og mun hafa á margar veikar sálir, í þá átt að brjóta niðr trú þeirra. Hún vekr upp þessa spurning: „Skyldi guð í raun og veru hafa talað svo?" Með því sáir hún sæði efa-

semdanna í hjörtu manna. Fyrir hina u n g u n á m s m e n n, sem öllu þessu er troðið í, hlýtr það að verða hörð reynsla. Þeir geta auðvitað ekki varið sig; þeir verða að hlusta á það, sem háskólakennararnir boða þeim. Á þeim aldri verðr jafnaðarlega ekki búizt við svo miklum andans þroska, að þeir fái vinzað úr því, sem fyrir þeim er haft. Þeir hugsa á þessa leið: „Það hlýtr þó að vera eitthvað í þessu,"—og svo sýkjast þeir hœglega að meira eða minna leyti. Fleygi þeir því ekki frá sér, þegar þeir eru orðnir prestar, mun svo fara, að það veikir þá í hinni kennimannlegu starfsemi þeirra, og leiðir til þess, að þeir verða hinum trúaða safnaðarlýð fráskildir. Og víst er það, að aðrir eins menn og Christian Scriver, höfundr ritsins „Sálar-fjársjóðrinn", John Bunyan, sem „För pílagrímsins" er eftir, og þeirra líkar, sem lifðu og drógu andann í biblíunni, hinu ósvikna orði guðs, geta trauðlega alizt upp þar sem hin hráslagakennda þoka biblíu-'kritíkarinnar' hefir streymt inn í hjörtun.

3. Biblíu-'kritíkin' sýnir þegar og mun framvegis sýna hina vondu ávexti sína í barnaskólunum. Með fyrirlestrum um biblíu-'kritík', með kennslu á kennaraskólum um hið sama, og fleiru, hafa efasjúkir guðfrœðingar leitt efasemdir inn í sálir margra lærisveina sinna. Það er þegar farið að hugsa um að búa til biblíusögur handa börnum sniðnar eftir kenningum 'kritíkarinnar', og það er nú jafnvel von á þeim hið bráðasta. Vér vitum, að einn af biskupum vorum hefir fengið tilefni til að lýsa opinberlega yfir því, að heldr skuli hann segja af sér embættinu en að láta annað eins viðgangast í hans biskupsdœmi. Og hve raunalegt er það, sem eg nýlega heyrði úr áreiðanlegri átt: Skólabörn nokkur á afskekktum stað úti í sveit í Danmörk spurðu, er þau komu heim úr skólanum: „Eru sögurnar um Abraham, Ísak og Jakob að eins æ f i n t ý r i? Kennarinn hefir sagt það." J á, s v o l a n g t h a f a m e n n þ e g a r k o m i z t.

4. Þ á m á b ú a s t v i ð þ v í, a ð e i n n i g þ ý ð i n g a r b i b l í u n n a r f á i f r a m v e g i s á s i g m ó t b i b l í u-'k r i t í k a r' þ e s s a r a r. Sœnskr prestr einn sagði mér frá því með mikilli hryggð, að hugsunum biblíu-'kritíkarinnar'

væri komið að í þýðing ritningarinnar, sem nú er unnið að í Svíþjóð. Hann tók til dœmis hið fagra orð í 1. Mós. 49, 10, þar sem Messíasar-fyrirheitinu um friðarhöfðingjann (Síló) er eytt og á þann hátt breytt, að úr því verðr að eins almenn athugasemd um bœinn Síló. En þetta stafar af áhrifum þeim, sem biblíu-'kritíkin' hefir haft á hugi þýðendanna.*)

5. Loks mun biblíu-'kritíkin' bera þann ávöxt, sem miklu illu getr valdið, að með öllu þessu opnast dyr fyrir nýja *skynsemistrú*. *Verði því haldið fram, að gamla testamentið sé til orðið blátt áfram fyrir náttúrlegan hugsunarþroska, en undr guðlegs almættis og guðlegrar náðar í því sambandi látin þoka, þá hlýtr* það á endanum að *leiða til þess*, að líka nýja testamentið, opinberanin í Kristi, verðr í hugum manna og kenningum að *afkvæmi náttúrlegrar trúar*. Samband gamla testamentisins og nýja testamentisins er svo afar náið, að sundrliman gamla testamentisins, rýring hinnar guðdómlegu tignar þess, hlýtr um síðir óhjákvæmilega að hafa það í för með sér, að einnig nýja testamentið verðr fyrir rýrð. Og eins og vér áðr höfum sýnt fram á er þessi meðferð á gamla testamentinu ekki að eins árás á vitnisburð postulanna, heldr og á drottin sjálfan, þar sem það, er hann vottar um gamla testamentið, er hiklaust talið villandi. Biblíu-'kritík' og skynsemistrú eru líka dyggilega samferða í Þýzkalandi, og vér tökum eftir því, að hið sama er greinilega ofan á á Norðrlöndum, enda þótt ýmsir talsmenn 'kritíkarinnar' til allrar hamingju sé að því leyti í mótsögn við sig sjálfa, að þeir vilja halda skynsemistrúnni burtu frá sér persónulega, fyrir þá sök að þeir hafa eygt svo langt inn í dýrð guðs eingetins sonar,

*) Hinn tilfœrði ritningarstaðr er þannig þýddr í Guðbrands-biblíu (1584): „Sú konunglega spíra skal ekki burt takast frá Júda — — — fyrr en [sá] frelsarinn kemr“ — með svo hljóðandi athugasemd á spázíunni þar út frá: „*Síló* merkir lukkusaman, hamingjufullan sigrvegara, fyrir andann og trúna; því höfum vér það norrœnað 'frelsari'.“ Eins er þetta í ensku biblíunni nýju, en jafnframt er þar á spázíunni bent á aðra þýðing (TILL HE COME TO SHILOH), og sú önnur þýðing hefir komizt inn í ísl. biblíuna þegar snemma á 19. öld. Hvor þýðingin er réttari er alveg óvíst. — Þýð.

að sú sjón heldr þeim föstum. En eins og áðr er drepið á eru þeir ávallt andspænis guðs orði eitthvað undarlega hikandi, og það d r e g r til muna ú r vörn þeirri, sem þeir ætti að veita gegn skynsemistrúnni, þar sem hún er að ryðja sér til rúms.

## VII.

### HVAÐ HEFIR VERIÐ GJÖRT OG HVAÐ MÁ AF HÁLFU SAFNAÐARINS GJÖRA TIL ÞESS AÐ REISA RÖND VIÐ BIBLÍU-'KRITÍKINNI'?

Talsmenn 'kritíkarinnar' segja: Það er ekki unnt að gjöra neitt, og það á ekki neitt að gjöra. Sitjið að eins kyrrir og ónáðið ekki þá menn, sem eru að vinna að verki biblíu-'kritíkarinnar'; þá mun allt vel fara; en sú verðr reyndin, að þér lagið hugmyndir yðar eftir 'kritíkinni'. — Víst vitum vér það, að b i b l í a n sjálf mun standa föst eins og klettr í hafróti. Í því tilliti er ekkert að óttast. En s á l i r manna geta orðið fyrir tjóni, og því verðr með engu móti sagt annað, eftir mynd þeirri að dœma, sem biblíu-'kritíkin' sjálf birtist í, en að þetta ráð sé veilt og villanda. Segir ekki guðs orð hjá Esajasi spámanni (62, 6): ,,Á borgarveggjum þínum, Jerúsalemsborg, mun eg setja vökumenn, sem aldrei skulu þegja, nótt né nýtan dag.'' Og enn fremr eru Síons verðir í Es. 56, 10 varaðir við að líkjast hljóðlausum hundum, sem ekki geta gelt.

Þar sem talsmenn biblíu-'kritíkarinnar' svo iðulega staðhœfa, að a l l i r g u ð f r œ ð i n g a r, s e m n o k k u ð s é a ð m a r k a, undantekningarlaust, samþykki í öllu verulegu hina svo nefndu niðrstöðu hennar, þá er það ó s a n n i n d i. Vér höfum þegar nefnt prófessor Green í Vestrheimi. Vér getum enn fremr nefnt prófessor Hoedemaker í Hollandi. Enn má nefna Sayce, Assýríufrœðinginn. Hann hefir sagt á þessa leið: ,,Hin hátt lofaða sundrliðan 'kritíkarinnar' á Mósesbókunum er ekkert annað en fyrirhafnarmikil tilraun til að snúa snæri úr sandi'',—og hann bœtir svo þessu við: ,,Þegar Mósesbœkrnar eru lagðar undir prófstein sögu austrlenzku þjóðanna hinna, þá verðr gamla skoðanin sennilegri en nýja skoðanin.''

Marga aðra mætti nefna. Vér þurfum að eins að líta til lítið eitt eldri guðfræðinga eins og voru þeir Hengstenberg og Keil í Þýzkalandi, Caspari í Noregi og Hermansen gamli í Danmörku. Það er í sannleika býsna bíræfið að hafna öllum slíkum mönnum, sem í þessari grein voru svo frábærlega vel að sér, sökum þess að þeir aðhylltust ekki biblíu-'kritíkina'. Lang-mest af því, sem 'kritíkin' nú ber fyrir sig, var einnig þessum mönnum kunnugt. Þeir, sem á vorri tíð eru að eiga við biblíu-'kritík', geta þó ekki vel sagt um þessa menn, að þeir sé ,,óvísindalegir og hafi ekkert vit á'', sem þeir annars stöðugt bera öllum á brýn, er ekki beygja sig lotningarfyllst fyrir þeirra svo kölluðu sönnunum.

Að öllu þessu skulum vér gefa gætur og enn að eins hafa það hugfast, hve afar fáir þeir eru meðal talsmanna 'kritíkarinnar' t. a. m. í þessu landi, sem, eins og áðr er tekið fram, segja má um að átt hafi að einhverju leyti við sjálfstœðar rannsóknir. Annars hljótum vér að segja, þó hörmulegt sé, að vörn sú er tiltölulega máttlítil, sem komið hefir fram af hálfu danska háskólans gegn hinni þýzku biblíu-'kritík', án þess eg þó með þessu vilji drótta því að neinum kennaranna þar, að hin persónulega trú hans sé biluð. Hver einstakr verðr að eiga um það við guð. Prófessor Buhl hefir eiginlega komið biblíu-'kritíkinni' að hjá oss. Ósjálfráft minnumst vér þeirrar tíðar, þegar skynsemistrúin gamla í byrjan síðustu aldar brauzt inn í Danmörk. Þá kraup háskólinn sorglega brátt á kné fyrir skynsemistrúnni, og Balle biskup með vikublaði sínu ,,Biblían ver sig sjálf'' stóð fyrir manna sjónum nálega aleinn. Það var aðallega trúarlífið víðs vegar út um land hjá vinum drottins meðal leikmannalýðsins, sem hélt sér fast við sannleikann. Það er undarlegt, hve oft bóklegar iðkanir geta orðið til þess að loka augum lærðu mannanna. Þeir verða hugfangnir af vísindalegum rannsóknum í einstökum atriðum og láta hœglega hrífast með, og enda þótt þeir persónulega haldist við hjá drottni, verða þeir þó hugfangnir af hinum lærðu sundrliðunum. Leikmenn með sinni einföldu trú og prestar með minna lærdómi, sem meir eiga við trúarlífið á verklegan hátt, hafa margoft miklu næmari tilfinning

fyrir því, hve nær hinum andlegu lífstaugum er hætta búin. En hve œskilegt væri það þó, að háskóli vor vildi á miklu ákveðnara hátt en nú gjörist setja sig upp á móti því mikla samsafni af byltingar-hugsunum, sem biblíu-'kritíkin' óneitanlega hefir fram að bera.

Enn má geta eins, sem er verulegt hryggðarefni. Meðal þeirra manna, sem vinna að „Kirkelexikon for Norden", er Fr. Nielsen biskup gefr út, annars svo ágætu verki, eru nokkuð margir ákveðnir talsmenn biblíu 'kritíkarinnar', og með greinum sínum koma þeir að í þessu verki ekki fáum staðhœfingum 'kritíkarinnar', og vitaskuld eins og væri þær fullsannaðar. Af slíkum fulltrúum 'kritíkarinnar' skulum vér að eins nefna þá prófessorana Michelet í Kristjaníu og Buhl í Kaupmannahöfn. Líka má benda á það sem mjög hörmulegt, að á síðasta kristilega námsmannafundinum fyrir Norðrlönd, þeim er haldinn var í Leckö 1901, var talið rétt að láta sœnskan háskólakennara, Erik Stave, sem aðhyllist hinar nýju kenningar um ritninguna, flytja fyrirlestr um „áhrif biblíu-'kritíkarinnar' á hið kristilega trúarlíf"; en í því erindi hélt hann því fram, að sannkristinn maðr eigi að láta sér þykja vænt um biblíu-'kritíkina' og fagna út af henni, og meira að segja vinna að henni og berjast fyrir henni. Það hafa komið fram sterk mótmæli í Svíþjóð gegn fyrirlestri þeim.

Þegar vér nú sleppum hinum heldri guðfrœðingum og spyrjum, hvað hinn eiginlegi safnaðalýðr hefir gjört og getr gjört út af biblíu-'kritíkinni', þá má meðal þeirra fyrstu, sem sterklega hafa mótmælt, nefna hina alvörugefnari meðal fylgismanna Grundtvigs í hópi prestanna. Eftir að prófessor Madsen hafði flutt fyrirlestr sinn á reformazíónarhátíðinni 1894, tók tímarit þeirra „Dansk Kirketidende" til máls, og ekki að eins útgefandinn, heldr líka Hoff, prestr Vartov-kirkju, og einkum hann, kom fram með skorinorð mótmæli í nafni safnaðarins bæði gegn undirstöðu-atriðum biblíu-'kritíkarinnar' og enn fremr gegn væntanlegum afleiðingum hennar að því er snertir hina heilögu persónu frelsarans, því afleiðingin myndi verða sú, að hann fengi það mark

á sig, er benti til þess, að hann eins og svo margir aðrir hefði verið flœktr í röngum ímyndunum. Eg get ekki gjört betr en að ráðleggja hinum kristna leikmannalýð vorum að lesa bók þá, er sýnir viðreign próf. Madsens og prestanna Monrads og Hoffs. Titill hennar er „Um gamla testamentis 'kritíkina'" (1895). Enn sem komið er verðr það, sem segja þa f um það mál, naumast betr sagt en þar er gjört, einkum af Hoff presti; þá hefir og safnaðarþingið, er haldið var árið 1891, haft mál þetta til meðferðar, og fyrir nokkrum árum varð það að samþykkt á einni slíkri samkomu, að kirkjumála-stjórnardeildinni skyldi send beiðni um að láta stofna nýtt kennaraembætti við háskólann og skipa í það mann, sem veitt gæti tilsögn í frœðum þessum í meiri samhljóðan við ritninguna. Meðal þess, er komið hefir úr meira hákirkjulegri átt, má nefna rit eitt eftir B. Paludan-Mueller, prest í Frederiksborg: „Hin kirkjulegu landamerki gagnvart gamla testamentis 'kritíkinni'", og enn fremr eftir sama höfund: „Biblíusagan og gamla testamentis 'kritíkin'." En hvað hefir verið gjört af hálfu Heima-trúboðsins? Fyrir skömmu sagði einn af vinum vorum (Gad prestr í Kaupmannahöfn) í grein nokkurri í „Kristeligt Dagblad", að Heima-trúboðið hlyti að „skammast sín" fyrir það, hvernig framkoma þess hefir verið gagnvart biblíu-'kritíkinni'. Eg get gjört hans orð að mínum, enda þótt eg gjöri það í allt öðrum skilningi en þeim, er orðin höfðu í hans munni. Já, blygðast megum vér fyrir það að hafa að undanförnu svo lítið látið til vor heyra í baráttu þessari, þó að hjörtu vor vissulega hafi brunnið af hryggð og gremju út af aðförum biblíu-'kritíkarinnar'. Vilhelm gamli Beck hóf nokkrum sinnum rödd sína gegn biblíu-'kritíkinni', bæði í „Annexet" og á Betesda-fundinum, þar sem hann hrópaði: „Krjúpið á kné fyrir guðs orði!" Og hafa þau orð síðan verið í minnum höfð. Eins og hann átti vanda til viðhafði hann í máli þessu fá orð, en djarfmannleg voru þau, og það munaði um þau. En að honum undanteknum hafa flestir af oss hinum nálega með öllu þagað meðan staðið hefir á hinum opinberu umrœðum út af máli þessu. Þó tók einnig Zeuthen stiftprófastr til máls í blaðinu „Fra Bethesda" eftir

að prófessor Madsen hafði haldið rœðu sína, þá er áðr er getið um, og ritaði um „Einstök atriði í gamla testamentinu". Að ekki skuli hafa komið meira um málið frá mönnum Heimatrúboðsins, fyrir það eigum vér að fyrirverða oss, enda er vonanda, að þetta verði öðruvísi hér eftir.

Og sannarlega er nú mál komið til, að menn taki sig saman og hefji röggsamleg mótmæli gegn þessu skelfilega gjörræði af hálfu svo nefndra vísinda. Því að meira eða minna af ólyfjani biblíu-'kritíkarinnar' er þegar runnið inn í blóð margra presta vorra. Sú hefir verið aðferð 'kritíkarinnar', að endrtaka staðhœfingar sínar í sífellu og halda því hiklaust fram, að þær væri „ómótmælanlega sannaðar", án þess að taka nokkurt tillit til gagnraka. Og það hefir haft glepjandi áhrif á marga presta. En nú ríðr á, að þetta komist ekki líka inn í blóð hins trúaða leikmannalýðs. Það yrði takmarkalaust tjón. Því verðr að halda söfnuðinum vakanda, svo hann sjái hættuna. Og þar næst liggr þá fyrir oss að svara síðustu spurningunni: Hvernig á leikmannalýðr kirkjunnar að haga sér andspænis biblíu-'kritíkinni'? Hvað getr hann gjört?

Auðvitað getum vér ekki varnað því, að biblíu-'kritíkin' haldi verki sínu áfram. Hún mun renna skeið sitt og komast svo langt sem komizt verðr í þá átt, og loks mun hún svo ljótlega hlaupa á sig, að þeir menn, sem vilja reynast drottni trúir, en nú eru af henni sýktir, munu þó, þótt seint verði, opna augun; þess megum vér víst vona. En þá verðr þeim ljóst, þó nú vilji þeir ekki sjá það eða geti það ekki, að sjúkdómrinn á rót sína að rekja til undirstöðu-atriða biblíu-'kritíkarinnar' og andastefnu gjörvallrar starfsemi hennar, og að á þeim bletti verðr baráttan gegn biblíu-'kritíkinni' að byrja.

En hér rís upp ervið spurning: Hvernig á söfnuðrinn að koma fram gagnvart þeim meðal trúaðra presta vorra, sem hafa látið töfrast af 'kritík' þessari? Með engu móti getum vér ímyndað oss, að þessir vinir vorir vilji fylgjast með þýzku biblíu-'kritíkinni', þegar hún er að lima ritninguna

sundr. Þeim er sjálfum óljóst, hvar þeir eru staddir. Þeir láta það ekki uppi, hve langt þeir ganga í þessari nýju ,,sjón á sögu opinberunarinnar". Þeir vita það naumast sjálfir. En með því að fleygja öðrum eins getgátum og ósönnuðum staðhœfingum út í söfnuðinn drýgja þeir synd.

Þessir vinir vorir virðast líta á sig sjálfa sem nokkurskonar píslarvotta ,,sannleikans". Það píslarvætti er þó of ódýrt. Hér er um þann ,,sannleik" að rœða, sem borinn er fram af hópi lærðra nútíðarmanna og fyrst og fremst kemr fylgismönnum sínum í vandræði gagnvart vitnisburði drottins og postulanna. Sá ,,sannleikr", sem þannig stendr á, gjörir engan að píslarvotti.

Loks skal tekið fram, að þessir vinir vorir hafa engan rétt til að bera oss, sem erum andvígir 'kritík' þeirra, það á brýn, eins og þeir gjöra, að vér berjumst ,,gegn sannleikanum", förum með ,,œsingar", ,,spyrnum á móti framförum" o. s. frv. Þeir ætti ekki að gleyma því, að *biblíu-'kritíkin' hefir byrjað árásirnar.* Með hinni ,,frjálsu rannsókn" hennar, eða því, sem svo er nefnt, á nú að neyða oss hina til að líta á skýjaborgir hennar svo sem væri þær bjargstuddir kastalar. Með tilliti til þessa höfum vér ekki að eins rétt, heldr líka skyldu til að mótmæla afdráttarlaust.

Hér vil eg þó vara við hættu einni. Þótt vér tökum eftir veikleik stafanda af biblíu-'kritíkinni' hjá sumum þeim mönnum, hvort heldr það eru prestar, prófastar, biskupar eða háskólakennarar, sem að öðru leyti má sjá að vilja skipa sæti meðal hinna heilögu og halda sér undir krossinum, þá látum oss ekki hlaupa á stað og segja, að þeir í trúarlegu tilliti hafi brotið skip sitt í spón. Það er óhœfilegt. Mótmælum biblíu-'kritíkinni' sem hreinskilnir menn; en jafnframt skulum vér ekki hætta því að láta oss þykja vænt um þá fyrir það, sem þeir þar fyrir utan hafa gjört í drottni, og biðja fyrir þeim, að þeir fái stungið biblíu-'kritík' sinni undir stól.

En fyrst og fremst eiga guðs börn að vinna að máli þessu með því að elska biblíu vora og nota hana, líka gamla testamentið, með þeirri dýrð, sem það hefir í sér geymda, langt um meir en vér höfum gjört. Því meira sem

vér reynum af krafti orðsins og hinni djúpu auðlegð þess, einnig í gamla sáttmálanum, því síðr er hætt við, að biblíu-'kritíkin' renni oss í blóð og merg.

Og loks vil eg eins átakanlega og mér er unnt segja við alla vini drottins: Stöndum saman í baráttu þessari fyrir því að halda oss föstum við biblíu vora! Í því skyni, að styðja hver annan til þess í drottni, höfum vér stofnað „Biblíu-bandalag Norðrlanda". Af samþykktum þess skal eg hér að eins benda á þrjár fyrstu greinarnar. Fyrirsagnar-orð þau, sem vér höfum valið oss, eru þessi úr sálminum alkunna: „Hver óvin guðs skal óþökk fá,—hvert orð vors guðs skal standa."

1. gr. Biblíu-bandalag Norðrlanda hefir þann tilgang að styðja meðvitund safnaðarins um það, að óhætt sé og öllum skylt að trúa heilagri ritning, og að veita vörn gegn hinni niðrbrjótandi biblíu-'kritík' nútíðarinnar.

2. gr. Að þessum tilgangi vill bandalagið styðja með

1. bœn í einrúmi og á guðsþjónustufundum safnaðarins um það, að guð haldi oss við sitt hreina orð;
2. með því að gefa út alþýðlega ritlinga;
3. með því að nota dagblöð og kirkjuleg tímarit;
4. með því að halda fundi;
5. með því, ef ástœður leyfa, að styðja að útgáfu guðfrœðis-rita.

3. gr. Inn í bandalagið má taka hvern kristinn mann frá Norðrlöndum, er tilheyrir hinni evangelisku lútersku kirkju og veit sig vera samþykkr tilgangi félagsins, konur jafnt sem karla.

(Niðrlag í næsta blaði.)

GJAFIR TIL MISSÍÓNARSJÓÐS frá því á kirkjuþingi síðasta þangað til nú:—Frelsis- og Fríkirkjusöfn., $31.75; Kvenfél. Frelsissafn., $10.00, Fyrsti lút. söfn. í Winnipeg, $31.00; Prestakall séra B. B. Jónssonar, $50.00; Vídalínssöfnuðr, $8.00; Sd.sk. Fyrsta lút.safn. í Winnipeg, $13.60; Selkirk-söfn., $7.00; sd.sk. Selkirk-safn., $3 00; Unglingafél. Vídalínssafn., $5.00; Kvenfél. Vídalínssafn, $10.00; Pétrssöfnuðr, $3.35; Víðinessöfnuðr, $4.00; Geysissöfn., $3.25; Bandal. Pembina-safn, $5.00.—Samtals $184 95.



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—

Prentsmiðja Lögbergs — Winni